# GRADUALE
## EJN ALMENNELEG
# Messusaungs Bok,
## UMM ÞANN
# Saung og Ceremoniur,

Sem i Kyrkiuñe eiga ad syngiast og halldast hier i Lande/ Epter goodre og Christelegre Sidvenju, sem og Vors Allra-Naadugasta Arfa Kongs og Herra, Kyrkiu-Ritual.

EDITIO XVI.

Selst Alment Jnbundeñ 30. Fiskum.

Pryckt a Hoolum i Hialltadal, Af Halldore Erikssyne,
ANNO DOMINI M. DCC. LV.



Coloſs. III. v 16.

Chriſti Ord bwe Rijkuglega medal ydar i øllum Vijsdoome, Læred og ꝏminned ydur ſiꝏlfa, med Pſalmum og Saungum og Andlegum Kvædum, i hvi hier ſijnged Unnnarſamlega i ydar Hiarta fyrer DRottne.

v. 17.

Og allt þad ſem hier gjøred J Orde edur Verke, (jꝏ) alla Hlute (ſkulud hier gjøra) i þeſs DRottens JEſu Nafne, þackande Gude og Fodur fyrer hann.

Pſalm. XCVI. v. 1. 2.

Sijnged DROTTNE nyann Lof-Saung, Sijnged DROTTNE øll Verøllden: Sijnged DROTTNE og Lofed hans Nafn, Prediked Dag fra Dege hans Hiꝏlpræde.

## Goodfwsum Lesara, Heillsa og Fridur:

EPter þvi eg hefe fornumed, þad marger i þessu sem hinu Stiftenu, hafe kvartad um̃ þad, ad ei være upplagder Grallararner aa ny, Pa hefe eg laated þeñañ aa Prent wtgaanga, epter þeirre 13: Edition Saal. Biskupsins Mag. Steins Jonssonar, i þvi sama Forme og med Nootum, Bæde vegna Hægdar fyrer Kieñe-doomeñ og lijka til Uppfrædingar fyrer þaa er villdu nockud leggia sig epter þvi ad læra Saung.

Eñ hvad Messu-Giørdena aahrærer og Saungeñ i Kyrkiñe, Pa eiga Prestarner ad Rietta sig epter Kongl. Majest. Ritual, Og strax epter þad samhrijngt er, laata lesa i Koordyrum aa Helgum Døgum, þessa Bæn, og Fader Vor aa epter:

DROTTeñ, Eg er Iñomeñ i þetta þitt Hellaga Hws, ad heyra hvad þu Gud Fader miñ Skapare, Þu DRotteñ JEsu miñ Frelsare, Þu Verduge Heilage Ande miñ Huggare, i Lijfe og Dauda, villt vid mig tala. DRotteñ, Opna nu so fyrer þiñ Heilaga Anda Fyrer JEsu Christi Skulld mitt Hiarta, ad eg kuñe af Predikuneñe ad læra, ad bera Angur fyrer mijnar Synder, og i Lijfe og Dauda ad trwa aa JEsum, og Dags Dag lega bætra mig i einu Heilogu Lijferne og Framferde, þad Heyre og Bænheyre Gud fyrer JEsum Christum, Amen. Fader Vor.

Pa strax þar epter byriast Saungureñ, sem hvørium Dege tilhlijder, og þa Kyrie er wtswnged, byriar Prestureñ sialfur. Alleinasta Gude i Himerijke, sie Lof og Dijrd fyrer sijnar Naader.

Edur aññad Gloria, Eñ ad þvi Endudu, snijr hañ sier til Folksins, Segiande: etc.



Diakuenn og Foolked ansar.



DRotten̄ sie med ydur. Og med þijnum Anda.

Þa snijr Presturen̄ sier til Altaresins, og siungur Collectuna, þa sem til er giørd.



Lætum oss bidia. Heyr HErra Gud og Himneske Fader.

Epter Collectuna, snijr Presturen̄ sier til Foolksins, og siungur Pistilen̄ sem til er giørdur, skijrt og lꝏngsamlega, so Foolked meige skilia hvad þar talast, Uppbyriande med þessum Hætte.



Peñañ Pistil skrifar Sancte Paall til Romanos. vel sic. Til Corinthios.



Kiærer Brædur. Comma, (Strik) Periodus. (Punctur og Klausa)



Qvæstio ? (Spurning) Finale. (Pad er Nidurlag)

N. B.

N. B. Þegar Lectiañ er skrifud añarstadar, eñ i Pistlum Postulaña, þa hagar Presturēn sier þar epter, so segiande: Þesse hellaga Lectia skrifast i N. N. Spaadooms-Book, Postulaña Giorningum, Opeñberingar Bookeñe, etc. N.N. Capitula. Nær epter sømu Nootum sem strax var uñgieted.

Haleluja, Item Seqventian, siungest af Grallaranum, so sem til er giørt, og Tijmanum hæfer.

Sijdañ suijr Presturēn sier fram, og siungur Gudspialled, Uppbyriande a þeñañ Hatt.




DRotteñ sie med ydur. Og med þijnum Anda.



Þesse epterfylgiande Ord, skrifar hinn Hellage Matthæus.

Diakneñ og Foolked ansar.



Gude sie Lof og Dyrd, fyrer siñ gledelegañ Bodskap.



Comma, Periodus,



Qvæstio 2

Qvæſtio ?  Finale.

## Epter Gudſpialled byrtar Preſtureñ Credo. Vier trwum aller a eirn Gud.

Predikuneñ ſkal jafnañ uppbyriaſt med Amiñing til Foolkſins, og ad þad bidie Gud um̃ Heilags Anda Naad, til ad heyra og vardveita hañs Ord, hønum til Lofs, eñ þeim til Lærdooms og Undervijſunar Saalareñar vegna, ſem þad heyra.

Adur eñ Preſtureñ les Gudſpialled, ſijngeſt Eitt eda Tvø Vers, ſem uppaa þad hlijder, og ſeirna ſegir.

Ad Endare Predikun, Amiñer Preſtureñ og ſo Foolked i añad Siñ, ad giøra Almeñelega Bæn til Guds Fødurs, i hañs Sonar JEſu Chriſti Nafne, um̃ alla Naudſynlega Hlute, Andlega og Lijkamlega.

Epter Predikunena, ſkal ſijngia Almeñelega aa Suñudøgum, **Heidrum Gud Fødur Himnum aa.** Eñ aa ødrum Tilteknum Tijmum Arſins, ſijngeſt epter Grallaranum, utañ þa ſtoor Naudſyn er aa Ferdum, Land-Plaaga eda Hardinde, þa ſie ſwngeñ Litanian med ſijnum Bænum.

Strax þar epter, eige Børn ad ſkijra, þa Handtiere Preſtureñ þad Embætte epter Ritualnum og Hand-Bookeñe. Eñ nær Confirmatio ſkedur, ſijngeſt: **Kom Skapare H. Ande, etc.**

Vere nu ſo vid, ad Opeñber Aflauſn ſkule framfara aa ſama Degi, Þa byrieſt undañ heñe Pſalmureñ: **Konung David ſem kiende, Og** ſijngeſt af hønum ſo miked ſem þarf, Nema ſie ecke Børn ad ſkijra, þa byrieſt ſaa Pſalmur ſtrax af Predikunarſtoolnum, i Stad þeſs tilgiørda Vers. Epter Opeñbera Aflauſn, ſijngeſt þetta Eina Vers: **Þo mørg og ſtoor ſie Mañleg Synd.** Sijdañ giøre Preſtureñ Amiñing til þeirra, ſem til Guds Bords gaanga, Sv ſem Epterfylger.

SAker þeſs mijner kiæruſtu Chriſti Viner, ad þier Riettelega og Maklega mættud medtaka þad haaleita Sacramentum Kvølldmaaltijdar vors DRottens, Þa ber ydur ſierdeiliſ þeſſa Tvo Hlute ad vita og ſkilia, ſem er, hvad þier ſkulud trwa og giøra, þvi ad þeſſum Ordum, ſem Chriſtur ſagde (þad er miñ Lijkame, ſem fyrer ydur verdur giefeñ, Item, Þad er mitt Blood, ſem fyrer ydur wtheltiſt, til Fyrergiefningar Syndaña) ſkulud þier fullkom-

fullkomlega trwa, ad so i Sañleika er, Þviad JEsus Christus er þar sañarlega sialfur hiaa, med sijnum Lijkama og Bloode i Sacramentenu epter Ordaña Hlioodan. Þar næst skulud þier og so trwa Christi Ordum; Til Syndaña Fyrergiefningar, Þad, ad JEsus Christur skeinkte ydur og gaf siñ Lijkama og Blood, til eins Jñsiglis og Stadfestingar uppaa allra ydar Synda Fyrergiefning. Ad Sijdustu skulud þier fyllelega giora Christi Befalning og Skipan, Þar hañ so bijdur ydur segiande: Medtaked og Eted. Item, Drecked hier af aller. Item, Giored þad i mijna Miñing, Þvi hañ hefur giefed oss siñ Lijkama og Blood ad eta og drecka til Fyrergiefningar Syndaña, Og þar med ad miñast hañs Heilaga Dauda og Pijnu. Þar fyrer, þegar þier so trwed þessum Christi Ordum, og giored epter hañs Skipan og Befalningu, Þa erud þier riett proofader og greynder, sem Paulus seger, Og meiged so maklega eta Christi Lijkama, og drecka hañs Blood, til Fyrergiefningar Syndaña. Þar til giefe ydur Gud Himneskur Fader sijns H. Anda Naad, fyrer hañ sama JEsum Christum vorn HErra. Og þar um vilium vier aller Gud bidia af Hiarta, Og segia.

### Epter Amiñinguna, snijr Presturen sier til Altaresins, og uppbyriar
Fader vor, skijrt og laangsamlega, Med Hiarta og Muñe, Segiande:



Laatum oss bidia. Fader vor þu sem ert a Himnum. Helgest þitt Nafn. Til-



kome þitt Rijke. Verde þiñ Vilie, so a Jordu sem á Himne. Gief oss i Dag

vort Daglegt Braud. Og fyrergief oss vorar Skullder, so siñ vier og fyrergiefum

vorum Skulldunautum. Og eige leid þu oss i Freistne. Helldur frelsa oss fra

Illu. Diakneñ og Folked ansar. Amen.

Sijdañ skal Presturen taka Patinuna med Braudenn sier i Hendur, og hallda þar æ, æ medañ hañ sijngur Inñsetningar Ordeñ, sem epterfylger, af Matth. 26. Marc. 14. Luc. 22. 1. Cor. 11.

Vor HErra JEsus Christus, a þeirre Nætt, sem hañ Forrædeñ var,

took hañ Brauded, giørde Packer og braut þad, og gaf sijnum Læresveinum

og sagde. Taked og eted, þad er miñ Lijkame, sem fyrer ydur verdur giefeñ.

Giøred

Gioreð það i mijna Miñing.

Hier næst take Prestureñ Kaleikeñ sier i Hendur, fyrer utañ Papiska Elevationem edur Upphafning, og sijnge Testamentis Orðeñ, sem epterfylger. Eñ a medañ Prestureñ wtdeiler Sacramenteð, talar hañ ecke añað til Foolksins, Eñ þesse Orð: Þetta er Sañur JEsu Lijkame, Þetta er Sañarlegt JEsu Blood.

Sømuleiðis epter Kvølldmaaltijðena, took hañ Kaleikeñ, giørde Þacker, gaf þeim hañ og sagðe, Dreckeð aller hier af. Það er Kaleikur hins Nija Testamentis i mijnu Bloode, sem fyrer ydur wthellest, til Fyrergiefningar Syndaña. Gioreð þetta so opt sem þier (það) dreckeð, i mijna Miñing.

A medañ Sacramentið wtdeilist, þa sijngur Diakneñ og Samkundañ, nockra af þessum Psalmum sem til eru giørðer, Eirn eda Tvo, Sem eru einkum þesser:

Þier

Pier sie Lof og Dijrd JEsu Christ, etc.
O Guds Lamb Saklausa, etc.
Gud vere Lofadur, og so blessadur, etc.
Heyr þu Guds Lamb, etc.

JEsus Christus er vor Frelsare, etc.
JEsu þijn Minning miog sæt er, etc.
Christe vier aller þockum þier, etc.
Tunga mijn af Hiarta hlioode, etc.

Skal ecke syngia leinge fram yfer þad, ad Foolked er bwed ad medtaka Sacramentum. Prestarner ættu og ad ammina Foolked, og sioa til, Ad þad gange til þess Heilaga Sacramentis med Gudhrædslu og goodre Sidseme, fallande a Knie, Kallmen til hægre Handar, en Kvinnur til Vinstre. Þar er og aftakande sa liootur gamall Vane, sem sumer Prestar lijda, Ad Foolked med Ys og Þys (nærlega) leitar hwor ad sijnum Nauunga, og goodum Vin, ad minast vid han, So þar fyrer hindrast Gudleg Þioonustugiørd. Sie nockur vansattur vid annan, Þa forlijkest fyrer Embætted, En hinum ødrum Kossagange, byriar med øllu aftekinum ad verda.

Strax þa wte er Sacramented, Þa snijr Presturen sier fram og segir:

**DRotten sie med ydur.** Diaknen og Almwgen svarar: **Og med þijnum Anda.**

Þar epter snijr han ad Altarenu, og syngur þessa Bæn og Þackargiørd:

Vier þockum þier DRotten Almættugur Eylijfur Gud, ad þu med þessare Heilsusamlegre Giof hefur oss alla nært, Vier bidium þijna Myskunseme, ad þu læter nu þessa þijna Gafu koma oss til alls Gagns og Gooda, og til vorrar sannrar Trwarstyrkingar i þier, og til eins brennanda Kiærleika og Elsku a medal vor Innbyrdis. Fyrer Saker Nafns þijns Elskulegasta Sonar JEsu Christi, Vors DRottens og HErra.

Foolked svarar: AMEN.

Nær eingen er til Altaris, syngr Presturen þessa Bæn: Latum oss alla bidia.

O HErra Gud Himneske Fader! Vier þockum þier fyrer þenna þinn Fodurlegan Velgiorning, ad þu af þinne stooru Naad og Myskunseme, hefur giefed oss þitt Heilaga og Saaluhialplega Ord, med hwøriu þu og so hier hiaa oss safnar þinne Christelegre Kyrkiu. Vier bidium þig audmiwklega, Gief oss þinn Hellaga Anda, ad vier med þacklatu Hiarta,

ta, mættum taka vid þvi, ogſticka oſs þar epter, og alltijd og ydugleg a fara vaxande i Christe legre Trw og Kiærleikanum, Og ſo Løkſens Saaluhoolpner verda, Fyrer þiñ Elſkulegañ Son JEſum Chriſtum vorn DRotteñ, Sem med þier Lifer og Rijker i Einingu Heilags Anda, Eirn ſañur Gud, Fra Eilijfd til Eilijfdar. Foolked ſvarar: Amen.

Eñ uñ alla Langa-Foſtu, ſkal pronuncera þeſſa Epterfylgiande Bæn, a Suñu-og Bænadøgum, Eñ ecke fleire.

Vier þockum þier Gud Fader, Ad þu hefur giefed oſs þiñ Eingieteñ Son JEſum Chriſtum, uppa þad, Ad aller þeir ſem a hañ trwa, ecke fyrerfareſt, helldur hafe elliift Lijf. Vier þockum þier JEſu Chriſte, ad þu hefur bored vorar Synder a þijnum Lijkama, og med þijnu Bloode afmaad vorar Yfertrodſlur. Vier þockum þier þu Verduge Heilage Ande, Ad þu hefur giefed oſs þa Trw i vor Hiortu, Ad vier eckert vitum añad til Saaluhiaalpar, Eñ þañ Kroſsfeſta JEſum Chriſtum. Gief oſs, O Gud! þijna Naad, ad vier fullkomlega trwum, ad allar vorar Synder ſieu fyrer JEſu Pijnu og Dauda Krapt oſs fyrergiefnar. Upplijs oſs med þijnum Heilaga Anda, Ad vier fyrer JEſu Dauda, Daglega afleggium Syndena, og alldrei ſleppum JEſu wr vorum Hiortum, Þangad til vier ſiaum hañ berlega i Eilijfu Lijfe. Þeſſa bidium vier þig aller i Nafne JEſu Chriſti vors HErra, Amen.

Þa ſnijr Preſtureñ ſier fram aptur, Og ſeger:

DRotteñ ſie med ydur. Diakneñ ſvarar. Og med þijnum Anda.

Hier epter Bleſſar hañ yfer Foolked, med þeſſum Ordum, ſem Gud ſiaalfur baud ad Bleſſa ſitt Foolk med, Numer. 6. Capitula, Med ſoddañ Nidurlage.



DROTTen blesse þig og vardveite þig, DROTTen lǽte sijna Asioonu lijsa yfer þig, og sie þier Nǽdugur; DROTTen upplypte sijnu Anglite yfer þig, og giefe þier Frid. Søfnudureñ svarar: AMEN.

Eñ þegar Confirmation framfer, Lijser ecke Presturen Blessan yfer Søfnudenum, fyrr eñ hun er a Enda. Og ad Sijdustu sijngest Exitus sem til er giørdur, Og Loksins endest Messañ, þa Catechisationeñ er wte, med þessare litlu Bæn, og Fader Vor.

DRottñ, Eg þacka þier af øllu mijnu Hiarta, Ad þu hefur nu kieñt mier, hvad þu villt, ad eg skule giøra. Hialpa mier nu, miñ Gud, med þijnum Heilaga Anda, Fyrer Saker JEsu Christi, Ad eg meige vardveita þitt Ord i hreinu Hiarta, og þar af styrkiast i Trwñe, Og i einu Heilogu Framferde forbetrast, Og mig þar vid i Lijfe og Dauda hugga, AMEN. Fader Vor, etc.

Eg Oska af Hiarta, ad þetta Verk meige þiena Prij-Einum Gude til Dijrdar, og hañs Dijrkeyptum Søfnudum til Andlegrar og Lijkamlegrar Þiennstu. Viliande fiñast allra ſañra Guds Elskenda Einlægur Þeidubweñ Þienare.

Hoolum i Hialltadal, D. 22. Junij 1747.

Halldor Brinjolfsson. Superint. Hoola St.



Pañ

## Þañ Fyrsta Suñudag i Adventu, Messu Upphaf.



JESUS Guds Son Eingieteñ, Eilijfur HErra vor. Su mæta Morgun-
Af hañs Hiarta wtgeingeñ, Eins sem þad skrifad er.



Stiarna, myrk Hiortu upplijser so giarna, Og allre Villu ver.

Hañ fæddest oss eirn Madur, a efstu Heim sins Tijd, hañs Heiloguftu Moodur, hiellt Gud siñ Meydoom vid, hañ fieck Diofful herteked, Himnarijke upploked, Og fært oss eilijfañ Frid.

Alls Heims Skapareñ ædste, og Fodurs Tigneñ skiær, Eilijfur HErra hædste, hvors Walld ei Enda fær, Forda oss vel vid Syndum, veit oss ad þig ætundum, So fra þier ei follum vær.

Laat oss i Astsemd þiñe, og Kyñing vaxa hier, ad Trwañ aukast kyñe, J Anda þioonum þier, So ad þiñ Sætleik hreina, Skal vor mætte vel reyna, Og til þijn verdum þyrster.

Hirt oss sem Hiartans Fader, hiaalpa og veit oss Lid, Og gamla Adam deyder, Svo giete nyr Lifnad vid, Sem hier med Huga hreinum, Hafa vill i þier Einum, Ord sijn, Verk og allañ Sid.

 Kyrie

KYRIE.



Kyrie Gud Fader hærsta Traust, Pu ert vor Glede og Lyst, Pyrm oss aumum,



vernda oss fra Syndum, Myskuna þu oss. Christe, þu ert vor Vegur,



og það sanna Livos, Lijfsins Ports Dyr, Kiærleikans Speigell, allra Christeña Lijf



og Raid, Pu varst oss til Saaluhiaalpar giefeñ, Myskuna þu oss.



Kyrie Helagur Ande Gud Eilijfur, Vertu hiaa oss Myskunsamlegur, svo ad vier

mættum



mættum Synndernar grætta, lææt oss ecke tapast, helldur æ þig vona, Myskuna þu oss

GLORIA in Excelsis.



Alleinasta Gude i Himerijke, sie Lof og Dijrd fyrer sijnar Náder,
Sem hañ hefur giort æ Jardrijke, æ þessum Naduglegum Døgum.



A Jord er komeñ stoor Glede og Frid, Svo Mañeskiañ mæ vel glediast vid, Guds



Elsku og goodañ Vilia.

Vier Lofum og Dijrkum, vier Heidrum þig, vier Pöckum þier fyrer þijna Elsku, O Drott- eñ Gud Fader i Himerijke, Þu hefur oss synt stooran Kiærleika, alla Hlute hefur þu



i þijñe

i þiñe Magt, Hvad þu villt hafa i frame, fær eingeñ sagt; Gott ſkiedur þar er þig Ottaſt.

O JEſus Chriſtus Guds Einka Son, ſem hiaa Gude Fodur ſitur, Þu hefur frelſad allt Mañkyn, og oſs vid Gud forlijkad; Fyrer þitt Blood og bitrañ Deyd, hefur þu oſs leyſt af Syndum og Neyd, gief oſs Naad i Trwñe ad blijfa.

Þu ert alleina vor Hiaalpar Mañ, ſem oſs vill Himerlijke giefa, Þu ert Guds Fodurs Saklauſa Lamb, ſem fyrer oſs villdet Daudañ lijda; Þu ert alleina vort Hiaalpar; Raad, fyrer þijna Skulld, þa faaum vier Naad, Allsmegtugaſte JEſu Chriſte.

O Þu Helge Ande! vor Huggare, ſem oſs villt Sañleikañ kieña, Hiaalpa oſs ad hallda þiñ Lærdoom, Gude Fodur, Syne og Þier til Æru; Vernda oſs fraa Dioſulſins falſkre Lyſt, Hiaalpa oſs ad trwa aa JEſum Chriſt, nu og Æfeñlega, Amen.

HALELUIA ſem ſijngiaſt ſkal um̃ Joola-Foſtu Tijmañ,
Philippenſes 4.



Ha - le - luja. Gledieſt i DRottne aller Chriſtner Meñ, Gledied ydur



þad ſegium vier eñ, ydar Um̃geingne gooda, Laated alla ſkoda, Þvi DRotteñ er,

nu



nu Naalægur hier, med blessad Ord sitt, fyrer þad verdur kvitt, Aundeñ vor af oll,



um Boda!, Ha - le - luja.

## SEQVENTIAN.



Nu Bidium vier Heilagañ Anda, ad vier mættum i Christelegre Trw



riett standa, Eirn Gud ad Elska, og hañ ad kalla a, hellst i Daudans



Stundu, þa vier Heime forum fra, Kyrie-eleison.

Þu verduga Lioos, gief oss þitt Skyn; Lær oss ad kieña JEsum Christum alleina, og hiaa honum ad vera, vorum Hiaalpar-Mañ, sem oss vill iñleida, J vorn rietta Fødurs Rañ, Kyrie-eleison.

Þu sæte Ande, send oss þijna Naad, Laat oss faa ad hallda þijn elskuleg Raad, so vier mættum af Hiarta, hvør añañ Elska; J einum Huga vera, og i Fride Christs ad bliifa, Kyrie-eleison.

Þu hærste Styrkur i allre Neyd, hiaalp; so vier hrædunst hvorke Skañ nie Deyd, og i voru Siñe, sieum øruggver þa, Nær Dioefull vill aa oss strijda, og Saaleñ skilst Lijkama fraa, Kyrie-eleison.

CREDO.



Vier trwum aller a eirn Gud, Skapara Himens og Jardar, Sa Fød-



ur hefur sig giefed, so vier hañs Børn skylldum verda, Hañ vill oss vort



uppheillde veita, vel ad Saal og Lyfe giæta, Et lætur Olucku rata, Ong-



vum Voda meigum þvi mæta, Forstoon og Vernd og Heill vor, er hann



ævallt, Þviad i hañs Vallde stendur allt.

Vier trwum og a JEsum Christ, Eingieteñ Son hañs vorn HErra, hvors Mauttur, Dijrd og Eylijfd vijst, ei kañ nockurn Tijma þverra, Gieteñ af Heilogum Anda, og af Mey fæddur æn Synda; J sijnum Mañdoome soñum, til Lijknar oss ropudum Möñum, æ Krossenum leid Dauda, og yfervañ; Af Guds Krapte upp aptur reis hañ.

Vier trwum æ Anda Heilagañ; Eirn Gud med Fodur og Syne, Voladra Styrkur beiter hañ, Hærstu Gæfur æ þeim stijner; Allre Christne hier i Heime, helldur, so Samlynde geyme: Aflausn trwum allra Synda; Af Jordu skal Holld vort uppstanda, Epter Utlegd þessa, Öll Guds Born fæ æfenlegt Lijfed honum i hiæ, Amen.

Epter Predikun skal sijngia þetta Vers.



Heidrum Gud Fodur Himnum aa, sem hvørskins hefur ad Raada,
So um̃ hans Son ad segiast maa, Saa hefur oss frelst af Voda.



Og heidrum Hellagan̄ Anda med, han̄ veiter oss Giafer sijnar, Er siv Heid-



ran fra Eilijfd skied, alldrei hiedan̄ af dvijnar, un̄ oss Gud Naader þijnar.

Hier strax epterfylger Aminning til þeirra sem gaanga til Altaris. En̄ aa medan̄ Sacramentum wtskiptest, skal siungia þetta Agnus, i Moodur-Maale.



O Guds Lamb Saklausa, aa Krossenum Lijflaated, Fodurnum varstu hlijdeń,
hvørneń



hvørneñ sem þu varst forliteñ, allar Synder hefur þu i burttekeð, Ellegar værum



vier Fortapader Myskuna þu ofs O! JESU.
Myskuna þu ofs O! JESU.
Gief ofs þiñ Frid O! JESU.

Pa margt Foolk geingur til Guds Bords, þa skal siŋgia so mykeð af þessum Psalme sem vill.



JESUS Christus er vor Frelsare, sem fra ofs Guds Reide snere, med



siñe Pijnu og sarre Neyd, svipte hañ ofs fra Eilijfum Deyd.

Ad þvi skylldum alldrei gleyma, oss baud ad eta siñ Lijkama, Pad Helga Braud hañs Hollded er, Hañs Blood i Vijne dreckum vier.

Hvor sem vill þa Maaltijd þiggia, þeim ber vel ad sier ad hyggia, faa Omaklegur mediekur þad, mun Daudañ faa i Lijffsins Stad.

Heidra Gud Himneskañ Fodur, hvor af Naad þig so vel fedur, Og so þu leystest Syndum af, Son siñ fyrer þig i Daudañ gaf.

Trw þu riett so ecke Efest, Ostyrkvum sw Fæda giefest, Hvorra Samvitsku Syndeñ lyr, Sorg og Mæda i Hiarta bijr.

Soddañ Naad og miwka Millde, mæddur Hugur fiña villde; Ef saklaus ert, þa fiert þar fraa, So stærre Hefnd ei hlijoter ad faa.

JEsus til sijn Aumum bijdur, Eg vil Mysk un veita ydur, Heiler gyrnast ei Grædarañ, Gagnlaus lijst þeim su Ment hañ kañ.

Ef þier Lausn wtvega kyñer, Ei være Þorf aa Pljnu miñe; Hvad skal þier mijn Maaltijd þa, Megner þu sialfur Hialp þier ad faa?

Ef þu trwer af Huga hreinum, og jaatar med Muñe þijnum, Velsickadur þa verdur þu; Vijst nærer Saal þijna Fæda sw.

Avöxt þeñañ aattu ad sijna, Elska skalltu Naunga þijna, og þeim giarnañ Adsted siert, Eins sem ad Christur hefur þier giort.

Jubilum S. Bernhardi, JESU dulcis memoria.



JESU þijn Miñing miøg sæt er, og miwka Hiartans Glede lier, umfram Hunaung



og allt hvad er, ylmar af JESU Nafne hier.

Sijngiast

Sijngiast eckert Sætara maa, nie segiast Gledelegra fraa, Huxun er eingeñ hærre ad faa, eñ HErrañ JESUM miñast aa.

JESUS er Von þeim Ydrast kañ, øllum Milldur sem bidia hañ, Þeim er hañs leita Liwfur añ, med Lijkn vill græda sierhvørn Mañ.

JESUS Sætleike Hiartans hijr, Hugarens Lioos og Bruññr Nyr, Øll Heimsins Glede er þa rijr, Ef Laungun Hiartans til þijn snijr.

Twnga þad eingeñ tala maa, nie Tygn wtskijra nockur þa, Oreynder kwad øngver faa, hvad Elsku er JESU gott ad naa.

JESUM i Hvijlu huxa eg, Hiartans i læstum iñra Veg, Astundan sw er Jñileg, Opeñberleg og Heimugleg.

Eins og Marin Angraadt Gied, eg sæke JESU Grafar Bed, Hiartans Sorgfullu Hroope med, Og Hug, þad Augnñ faa ei sied.

Hañs Legstad Taarum helle eg i, Hiartad mitt Svalar sier med þvi, ad JESU Footum fell eg aa Ny, J Fadme þeim eg Læstur by.

JESU Undrunar Kongur kiær, Kongur Sigrande miøg fraabær, Omælanlegur Jlmur skiær, Æskelegaste Fyrr og Nær!

HErrañ vor milldur hiaa oss bw, Heiløgum Gaafum uppfyll þu, Hugskots Myrkrum fraa Møñum snw, med þijnum Sætleik fæd oss nu.

Hvønær þa kiemur Hiartad i, Helgur Sañleike, lijser þvi, Heimsins Faanijtu hverfa Sky, Hrein Elska kviknar uppaa ny.

JESUS Sætasta Elskañ er, Jlmur Sætaste fyrer mier, Þusundfalldlega Þocknan ber, Þusundfaldt meir eñ skilium vier.

Hañs Kyøl bevijsa hellst kañ þad, og Heilagt JESU Dreyra Bad, Oss sem Lausn hefur wtvegad, og vid Gud Fødur Forlijkad.

JESUM þecke hvør hellst sem kañ, Hañs Astar leite sierhvør Mañ, JESUS af ydar Elsku brañ, Elskañ breñande fiñur hañ.

Elsked þañ er so Elskar oss, Elskuñe mæte Trwar Koss, aastunded slijkt ylmande Hnoss, Med Astar Bæn og Taara Foss.

Miñ JESU HErra Myskunar, mijn Huggun allrar Gledeñar, Bruñur Sætleiksins Sadningar, og saña Hiartans Fagnadar.

Miñ goode JESU gief mier þa, Gnægd af þiñe Elsku ad faa, Veit mier aan Enda ad vera þier hiaa, Vegsemd þijna og Dyrd ad siaa.

Mijn Twnga vijst Overdug er, veit þo ad ecke þeigia ber, Elskañ þijn Diørfung eykur mier, Alleina gled eg mig i þier.

Elskañ þijn JESU alltijd hier, Endurlijfgunueñ Hiartans er, aan Leida saña Sadning lier, Saalena hwngrar epter þier.

Hvør þig smackar, þig hellst gyrnist, Hvør Saal þig drack, Þar til er Þyrst, Hiartans nein ecke

næger

nꜳger Lyst, Nema vier Elskum JESUM Christ.

Hvørn þu Dryckiar med Astar Yl, ꜳ Sætleik þijnum siñur Skil, hvad Sæll er sꜳ þar huxar til, Hiartanu geingur þa i Vil.

JESUS er Eingla Heidur hijr, Heyrneñe Glede Saungur skijr, J Muñe Hunꜳngs Ylmur dijr, J Hiarta Lijfsins Dryckur nyr.

Glooande hef eg Gyrnd til þijn, Miñ Goode JESU kom til mijn, Nær gledur mig sw Nꜳlægd sijn, Nær fær mitt Hiartad Laungun sijn?

Søñ Elska JESU sijfelldlig, Siwkañ af Elsku giører mig, Sæte JESU mier sijn þu þig, Sꜳleñ mijn þar vid gledur sig.

JESU þu ert Myskuneñ mest, miøg Dꜳsøm Glede i Hiarta fest, af Goodsemd alldrei Gud miñ lietst, Giefdu mier þig ad Elska best.

O! hvad good JESU Elska er? Añad ei stunda skylldum vier, Æ! ad eg deya mætte mier, miñ JESU, so eg lifda þier.

O! JESU Sꜳlar Unun trw, Allra Sætaste miñ JESU, Þijn leita Tꜳreñ nꜳkvæm nu, nærst er Hiartanu Gyrndeñ sw.

Hvørt sem ad geing eg Ut eda Jñ, Eg þreyge JESUM HErra miñ, Hvad Gledst eg dꜳtt þa hañ eg fiñ, Hvad feigeñ vid hañ Sætleikiñ?

Mijns JESU Fadm ad miñast vid, Meira Gledur eñ Hunꜳngid, þa vier teingiunst hañs Hægre Hlid, Hiartanu fiñst ei lꜳngsøm Bid.

Hvørs eg leita mitt Hiarta sier, Hvad eg gyrnest, þad fiñ eg hier, Siwkur af JESU Ast eg er, Allt Hiartad breñur nu i mier.

Ef þu so JESU Epter þreyr, Alldrei slockna Kiærleikar þeir, Ast sw hijrnar eñ ecke deyr, ætijd vex hun og kvíknar meir.

Sw Elska breñur sijfelldleg, Sætnar og verdur undarleg, med Undrun smackar Astwdleg, Astwdleg Gledeñ farsælleg.

Sw Elska kiemur Ofañ ad, J Merg og Hiarta fiñur Stad, Hugarens Astar iñra Bad, Aundeñ mijn gledur sig vid þad.

O! þad Farsæla Astar-Bꜳl, upptendrar mijna Gyrnd og Sꜳl, O! hvad sæt er sw Svala-Skꜳl, Son Guds Elskar Hiartad og Mꜳl.

Sæll JESU Meyar sæla Sꜳd, Sætleikur vor og Elsku-Dꜳd, Þier Valld, Dijrd, Heidur, Heilsa, Rꜳd, og Hroosun Gudleg æ sie tiꜳd.

Kom, kom þu goode Kongur nær, Kom þu Vegsemdar Fader kiær, sijn vorum Hug hvad sierstu skiær, Sem nu af Hiarta gyrnuust vær.

Siꜳ, JESUS Fegre eñ Sooleñ er, Sætare eñ Balsam finst hañ mier, uñfram Ylm allañ, Ylma ber, Elskulegre eñ giørvallt hier.

Hañs Smeckur hrærer nu ꜳ Ny, neirn Ylmur kañ ei jafnast þvi, Mꜳtt-vana Þꜳnkeñ er hier i, Elskuñe slijka Hvijld eg by.

Hier vid uner sier Hunguriñ, hier miñar Elsku

Gnægd

Snægd eg sinn, Þu ert mijns Hiarta Hroosunin, HErra JESU Frelsare minn.

Æ! Kom þu Hiartans Elskann miin, Eins og Fødursins Makt, er þijn, J Himna Dijrd sem ꜳ þier skijn, Ovinur þinn mꜳ skammast sijn.

Eg skal þier fylgia æ hvørt fer, Eingenn kann slijta mig frꜳ þier, Hiartad mitt JESUS hefur med sier, Hroosun Mannkynsins JESUS er.

Fagur nu giørvall Himna-Her, Himnanna Porten opna ber, Þeim Sigre hroosar sijngium vier, Sæll HErra JESU Dyrd sie þier.

Kongur Vegsemdar, Kongur hijr, Kongur hroosande Sigre dijr, Frelsudum JESUS Frelse bijr, Frelsarans Dijrd ei verde rijr.

Þu Brunnur allrar Blessunar, Blessada Lioosid uppe þar, greid burt Skyenn Ogledennar, Gief þu oss Byrtu Vegseindar.

Þig prijsar allur Himna-Her, Heidur og Dyrd hann sijngur þier, JESUS eirn Heimenn upplijser, og oss vid ONottenn Fridþæger.

Stioorn JESU, Frid umm Eylijfd ꜳ, yfer vorn Skilning geingur sꜳ, Hiartad mitt gyrnest hann ad sꜳ, hønum eg feigenn villde nꜳ.

Til Fødursins Uppstijgenn er, Øllum stioornande Dyrdar-Her, Mitt Hiarta burtu hvarf frꜳ mier, HErrann JESUS took þad med sier.

Veitt sie þier JESU Vegsemd klꜳr, Virding, Lofgiørd og Bæna-Tꜳr, Lꜳt þu oss HErra Lijssins Hꜳr, lifa hiꜳ þier umm Eylijf Aar! Amen.

Þegar fꜳer eru Communicantes, Mꜳ sijngia þetta Agnus Dei, Einusinne edur optar.



O þu Guds Lamb, sem i burt-tekur Veraldarennar Synder, Myskunna þu oss!

## Eirn Packlætis Psalmur: epter Sacramented.

C

Christe



Christe vier aller þøckum þier, þa ſætu Aſt þu oſs ſynder,
Ut þu gafſt oſs þig allañ hier, og allt i Daudañ þig piinder.



Svo ad vier yrdum Synda frij, ſiaalfs þijns Bloode wthellter þvi, ſo



yrdum vier ei Tijnd . . . er.

Þvi er þad nu uppfyllt ſo, ad hañs Myſkun vier hliootum. Syndaña Lauſn og ſaña Roo, ſlijkrar hañs Elſku niootum, ſemium Trauſt og ſierlegt Raad, So ad vier eige þeſſa Naad, med Otrw af oſs briootum.

Þiñ fagra Lijkama til Fædu gafſt, og fieckſt oſs þitt Blood ad drecka, ad auka ſo vorn Anda-Krapt, og illum Gyrndum ad hneckia. Endurfædingar eſt þu oſs Aud, er Fæda þeſſe Barna-Braud, Riettaſt ſkal ei ad Rockum.

Hiaalp ſo vier kuñum Kiærleiks Verk, Chriſtnum Moñum ad veita, Vel ſem þijn Kieñing vijſar ſterk, vier mættum þijn Børn

rn heita. Vier inrætter þeinkium aa, þijns Aptans Maals ad neyta so, Og eige af þvi breita.

Medan vier lifum hier i Heim, hans Velgiørda vier minnunst, Hans Kvol og Dauda ad kynna þeim, i Kiærleik þar um finnunst, þar til Rijked þiggium vær, þad sem aungvan Enda fær, J viisum Fegnud finnunst.

Sialfsum Gude vier segium Dyrd, hans Syne og Heilogum Anda, Sem ad Upphafwt var skijrd, og Æfenlega skal standa, og umm Allder Allda meir, Amen sege aller þeir, sem Hiortun hier vill vanda.

Epter Sacramentis Utdeiling, maa og siungia þennan Lofsaung.



Gud vere Lofadur, og so Blessadur, sem oss fædt hefur alla sialfur, med sijnum Lijkama og med sijnu Bloode, þad giefe oss Herra Gud til Gooda.



Kyrie - eleison. Herra fyrer helgann Lijkama þinn, hvor af Jomfrw Mariu



er komenn, og fyrer þitt flecklausa Blod, frelsa þu oss af allre Naud, Kyrie-eleison

Þitt Heilaga Hollð, er fyrer oss wtgiefeð, J Dauðañ, so vier feingium Lijfeð. Astgiof stærre eingeñ mætte fiñast, af þvi skulum vier heñar miñast, Kyrie eleison.

HErra þijn Elska þvijngade þig, Þaug Undur að syna Dæsamlig, vora Sekt hefur Blood þitt bætt, Vid Blessadañ Fodur oss alla sætt, Kyrie eleison.

Blessan siñar Naadar Gud oss giefe, að gaungum hañs Veg alla Æfe, J hreirnre Ast og oruggre Trw, so oss sie heilnæm Fæda sw, Kyrie eleison.

HErra, þiñ Ande sie oss ætijd hiaa, Og giefe oss jafnañ þa Naad að faa, að þijn Christne, Þitt litla Lid, Life i Samlynde og Frid, Kyrie eleison.

## Þegar ongver gaanga til Guds Bords, aa þessum Adventu Tijma,

þa syngest epter (Heidrum Gud Fodur Himnum aa) Þesse Epterfylgiande Psalmur.



Hallt oss Gud vid þitt hreina Ord, Hindra Pavans og Tyrkians Mord, sem



Vilia JEsum Son þiñ fiaa, Sijnum Velldis Stoole hrundeñ fraa.

Syn þijna Makt, O JEsu Christ! ollum Herrum þu stioornar vijst, oss þijna Christne auma ver, Æfeñlegt Lof so syngium hier.

Gud Helge Ande Huggun trw, Hiord þiñe gief Samlynde nu, Vertu hiaa oss i Efstu Neyd, wr Dauda iñ i Fognud leid.

Þiñe Kyrkiu og Christnum Lijd, Kiære Fader hlijf allañ Tijd, hallt þu oss fast i hreirnre

irnre Trw, Hernad Ovina fraa oss snw.

Aull Svikrad þeirra Onijt gior, Jesu siñe so mæte hier, Gief þeir steipest i Grof þa iñ, sem grafa, ad skada Sofnud þiñ.

Fullkomlega þeir þeckia þa, þu Gud lifer og ert oss hiaa, Hoop þeim sem hefur a þier Trw, Hiaalp volluglega veiter þu.

Fyrer Lausn og Frid, þiñ Lijdur hier, Leynt og Berlega syngium vier, þier Guds Heilagre Preñingu, Packer, Lof Dijrd ad Eilijfu.

Edur þesse epterfylgiande Psalmur, Ton, Være nu Gud oss ecke hiaa, etc.

O Gud bijfølud æ sie þier, wtvaleñ Christne hreina, svo hun jafnañ i Heime hier, halldest fyrer Nаd þijna, Laat þijna Makt og Soma siaast, sæta Huggun og saña Ast, Vilier oss aumum sijna.

Þoott moodgum þig aa margañ Veg, med Synd aa hvørium Dege, af þijnum Vilia opt og miøg, Unger og Gamler hneige, hvørn Dag styrker oss Huggun su, hefur þvi lofad sialfur þu, Syndugs Dauda vil eg elge.

Þa fullkomlega fordast vill, Framferde sitt hid lioota, og vidurkieñist Verk sijn ill, Velferd og Lijf skal hlioota, Hug vorn gledur sw Huggun væn, Heyra vyrdest þu vora Bæn, Lætur oss Naadar nioota.

Fyrer þitt Nafn oss frelsa nu, Fraa vorre Mædu laangre, Þeim bundner eru biarga þu, burtu fraa þeirra Angre, Hoop þijnum Christna halltu vid, Huggun veit þeim og godañ Frid, J Heims Astrijdu straangre.

Sem Borgena Bethulia, Briota villde med Sverde, Holophernes, sem hafde þa, Hatur aa þijnu Orde, Leyster þu i þeim litla Stad, Lijd allañ sem þig jafnañ bad, Frw Judith þad fullgiørde.

Eins er nu Zion sialfs þijns Borg, sokum Kleñinga þiña, af Verolld hveñ Svik og Sorg, sækest hana ad viña; Alleina þu Guds Einka Son, Ert heñar Vernd og Hialpar-Von, Hiaastod laat hana fiña.

Heilagre Christne hallt þu vid, Heidner so alldrei eyde, Veit þu oss DRotteñ Vernd

og

og Lid, vid Dioflus Flærd og Reide, Send oss af Myskun saña Trw, so oss til Enda styrke sw, og i Lijf til þijn leide.

Heidrum Gud Fodur og Frelsarañ, fyrer Myskun margfallda, og Heilagañ Anda Huggarañ, hvor oss vid Trw vill hallda, Dyrd Guds sem var i Upphafe, Eins nu at Jordu og Himnum sie, um̃ Allar Allder Allda.

## Epter Blessan þeñañ Psalm.










Greidt

Greidt wt af Salnum gaa, Glede þijna ad siaa, Syrg ecke Zions Lijdur, Sonur Gudds til þijn rijdur, Hosiañá Heidur og Æra, vorum HErra JEsu kiæra.

O! siaa Ein Asna ber, þañ allra DRottañ er, Priaal hañs er faatt ad fiña, fliott kañ þo Daudañ viña, Hosiaña Heidur og Æra, vorum HErra JEsu kiæra.

Hañ prijder hoogvært Gied, og Hiartans Glæsta med, Saa vill Naad sijna giefa, Siñe Brwdur aan Efa, Hosiaña Heidur og Æra, vorum HErra JEsu kiæra.

Opna þu Porteñ oll, Jñtak Guds Son i Holl, Hañ sie hiaa þier til Giesta, Hiaalpræded allra besta, Hosiaña Heidur og Æra, vorum HErra JEsu kiæra.

Kvistu og Klæde aa Leid, Kongsins med Audmykt breid, Foolked skal færa Paalma, fagrañ Vid, og Lof-Psalma, Hosiaña Heidur og Æra, vorum HErra JEsu kiæra.

Ungbarna ægiætt Val, allt ad eins giora skal, Saa heile Saungva-Skare, sijna Lofgiord ei spare, Hosiaña Heidur og Æra, vorum HErra JEsu Kiæra.

## Añañ Suñudag i Adventu, allur Saungur sem þañ Fyrsta.

Epter Blessan syngest þesse Psalmur. Ton, Heimile vort og Hwseñ med, etc.

TAlar JEsus ad Teikn mune skie, aa Tungle, Soolu og Stiornum, og Ognar Kvol aa Jordune, yfer þeim Kvijda giornu, Sioor og Bylgiur þa hliooda haatt, fyrer Hrædslu Meñ þa missa Maatt, af Heims fraabærum Fyrnum.

Kraptar Himnaña hræraft þa, hijngad i Skye mun koma, Mañsins Sonur af Himne haa, med heilogum Dyrdar Lioomaa. Nær þetta skier, Pa hefied haatt, Hofudeñ upp, þvi nealgast braatt, Endurlausn ydar med Sooma.

Fyrer ydur virded Fijkiu-Trie, Og fleire Eykur Skoogar, þier vited ad nærre Symre sie,

ſie, þa ſijna þaug Plomur'noogar, Eins lijka þañ Tijd þetta ſkier, þeinked Guds Rijke nalægt er, Utvølldum øllum þegar.

Sañlega Sañlega ſagde hañ, Sveiteñ Chriſteña Maña, forgæanga ei nie eydaſt kañ, Jñ til þeſs ſlijkt fær kaña. Jord og Himnar forgæanga ſkioott, Folnar giørvallt og hrørnar ſkioott, utañ Guds Orded ſaña.

Eg trwe þvi ſem þu ſagder hier, ſæte Guds Son og millde, Bid eg þu giefer vel Gaum ad mier, Og geimer med Hlijfdar Skillde, auktu mier Krapt i Eymdum þeim, ſem yferfalla þa þeñañ Heim, ſtødugur ſtanda villde.

Fødur Syne og Anda ſie, Ædſt Dijrd um̃ Jord og Himen, Eins ſem hun var ad Upphafe, æn Enda verde frameñ, kieñ oſs ad hallda Chriſteñ Sid, kvittaſt og ſkiliaſt Synd er vid, Sæ þad vill ſynge Amen.

## Þridia Suñudag i Adventu, Allur Saungur ſem 1. og 2.

Epter Bleſſan.



Glef þiñe Chriſtne goodañ Frid, Guds Son um̃ vorar Tijder, Þvi eckert



hefum vier añad Lid, Eirn þu fyrer oſs ſtrijder, ſiælfur Gud vor ſañur Fader.

Þu eirn Heilagañ Hug og Raad, og hreint Framſerde veiter, gief oſs þad Hiarta af þiñe Raad. Þijns Ords alleina leite, epter þvi i Trwñe breite.

Þo

Po vor Misgiord sie morg og stoor, med Naad virdest þad bæta, af Lijkn og Myskun lijt til vor, Lææt oss ei Reide mæta, fyrer JEsum Son þiñ sæta.

Uñ þad bidium vier oll þijn Born, ad Frid vilier oss giefa, med þiñe Hond og mildre Vorn, moote Ovinum oss hlijfa, Pier til Lofs so mættum lifa.

Fioorda Suñudag i Adventu, sijngest sem 1. 2. og 3. Epter Blessan.



Sææ Vitnisburdur hiñ valde, vottast nu giorla hier, Fraa Jerusalem þeir
Er Johañes Judum talde, Jæætning hañs soñ þad er.



senda, Syne Levi vel kienda, med Hofud-Prestaña Her.

Þeir friettu ad hvort hañ være, HErrañ sææ Christur ei? Hañ svarar sem honum bære: Segiande vid þvi nei. Ertu Elias Froode? Eda sææ Spææmañ goode? Nei kvad hañ þvert vid þvi.

Frámar þeir frietta villdu, og færa Svar heim med sier, Baadu hañ skijra skyllde, skiootlega hvor hañ er, Og þvi ecke tregde, Eitt hvad so lioost hañ segde, Riett af siæælfum sier.

Johañes ansa nææde: Eg er þad Naddar-Hliood, Sem Esajas um spææde, af Eydemorku stood, Gotu DRottne þier greided, og

gioreð

gioreð hañs riettar Leider, Huggest nu Hiortun good.

Fra Phariseunum fooru, Forr-greinder Sende-Meñ, sem af þeim valder voru, voktu þa Spurning eñ, Þvi skijrer ef ertu eige, af Þremur þeim Eirn eg sege? Ansar þeim ollum señ.

Eg skijre i Vatne ad Vanda, Veit þo hiar ydur hañ, midt i Midiu standa, munud ei kieña þañ, Epter mig kiemur hiñ kiære, þo kreptugur fyrer mig være, Heimsins Hialpar-Mañ.

Þo framfallande eg fære, ad Footum þessa Mañs, Verdugur ecke være, ad vera þo Skoo-Sveirn hañs. Sw Skijrnar-Skickan klaara, Skiede i Bethábara, vid Jordan Juda-Lands.

Eg er nu JEsu goode, þiñ aumur Lære-Sveirn, kalla med hvellu Hlioode, hvorn Mañ jafnt sem eirn. Veit þu eg Veg þiñ greide, og Volada til þijn leide, Sie trwr og Hiarta hreirn.

## A Fædingar Hatijd Lausnarans JESU Christi, Messu Upphaf.



Frelsareñ er oss fæddur nu, Af Mañs Volldum ei visse
Hañs froom Mooder var Jomfrw.



sw, J Heim til vor, af Himnum foor, sw Heilleñ stoor.

Med

Med oſs er Gud Emanuel, Ord þaug bodade Gabriel, um̃ þad vitnar Ezechiel; Guds Födurs Son, Gief Lijfs og Von, Vor giördeſt Þiôn.

Ord Davids vel uppfyllaſt hier, og hvad Kriſa Spaamen̄erner, Chriſtur ſaa Eingla Konguren, hvorn Fiaar-Men̄ ſiaa, J Jötu laa, Ein Man̄eſkia.

HErran̄ ofan̄ af Himnum ſtie, Heriade epter Man̄kyne, Þvi vill han̄ kvitt af Syndum ſie, Saal hvörs eins Man̄s, og hoolpen̄ til San̄s, med Myſkun han̄s.

Follum nu til Foota Chriſts, ſem fæddeſt oſs til Lauſnar vijſt, fieck oſs aa Himnum Frid og Viſt, Synge han̄s Hiörd, honum Lof og Dyrd, og Þackargiörd.

An̄ar INTROITUS, Þeir meiga og bæder ſijngiaſt.



Heidra ſkulum vier HErran̄ Chriſt, ad han̄ Madur oſs fæddiſt, af hreinn-
re Jomfrw Maria, og þvi gledſt öll Sveit Einglan̄a, Kyrie-eleiſon.

Son Eilijfs Födurs Eingieten̄, J Stallenum nu fin̄a Men̄, Vort auma Hold og Blood nu ber, Bleſſadur Gud aa ſiaalfum ſier, Kyrie-eleiſon.

J Meyar Lijfe hvijleſt han̄, Hvörn v'ijd Veröld ei lykia kan̄, ſaa er nu orden̄ ungur Sveirn, ſem öllum Hlutum ſtiornar einn, Kyrie-eleiſon.

Eilijfs

Eilijft Lioos Jũgeingur þar, alla Verolld upplioomar, midt i Myrkre Lioomar þad Lioos, Liossens Born þad giorer oss, Kyrie-eleison.

Sañur Guds Sonur Fodursins, sioalfur vitiade Mañkynsins, ad leysa oss wr Eymdar-Dal, Og Arfa giora i Himna Sal, Kyrie-eleison.

Fatækur kom i Heimeñ hier, Hañs Myskun so ad feingium vier, Og aa Himne yrdum Auduger, Einglum Heilogum samlijker, Kyrie-eleison.

Þetta hefur hañ allt oss veitt, ad sijna þad oss elskar heitt, Guds Christne oll þvi glediest nu, Giof þa þacke ad Eylijfu, Kyrie-eleison.

KYRIE.











Born þier hiaa. Ky - rie Heilagur Ande, hvørs Verk þad var, ad vreiu



Mey aan Mañs Þwngañ bar, Laat oſs i Syndum ei deyia hier, gief



helldur Christum med oſs høfum vier.

GLORIA.



Gloria Dyrd Heidur ſie Güde i Hædum, og aa Jordu Fridur øllum



Møñum, Og Good-ur Vilie. Vier Lofum þig, Vier Veg-



sømum þig, Vier Gøfgum þig, Vier Dijrkum og Heidrum þig.



Packer giørum vier þier, faker mikillrar Dyrdar þiñar, Drotteñ Gud Him-



neskur Kongur, Gud Fad- er Almaattugur, DRotteñ Eingietenn



Son, JESU Christe, og Heilagur Ande, DRotteñ Gud, Lamb



Guds og Sonur Fodursins, Þu sem burtu tekur Synder Heimsins,



Myſku - na þu oſs. Þu ſem burt tekur allar Heimſins Synder,



Tak til þijn vorar audmiwkar Bæner, og Myſkunſamlega heyr þu oſs.



Þu ſem ſitur a hægra Veg þijns Elliſfa Fødurs, Myſku - na þu oſs.



Þviad þu einſamañ ert Heilagur. Þu einſamañ ert DRotteñ. Þu



eirn ſamañ ert hiñ Hærſte JEſu Chriſte, med Heilogum Anda,


i Dyrdeñe Guds Fodurs, A · · men.

HALELUJA.


Ha le · · · luja. Eitt Sveinbarn fædt oſs ſañ!ega er, og
Fraa Daudanum hañ frelſte oſs hier, og


Sonur af Gude giefenn. Pvi ſkulum hañ prijſa af Hiarta
flutt til Lijfſins befur.


meſt, ſo Hugureñ þar til vende, Hañs Orde epter ad breita beſt, ſem
Bleſſad-



Blessadur Gud oss klende. Ha le . . : luja.

SEQVENTIAN.



Nu vilium vier aller þacka Gude vorum HErra, sem med siñe Fœdingu hefur oss leyst,



Heidra skulum vier HErrañ Christ. Siingest Prisvar.

fra Diofulsins Vallde og Herteknìngu, Lofed DRotteñ.



Honum ber jafnañ ad vier syngium med Englunum, Dijrd og Prijs sie Gude



Fodur i hærstum Hædum.

Messu CREDO, Noterud sem næst mä epter Latinuñe.



Vier trwum aller a eirn Gud. Fodur Almattugañ, Skapara Him-



ens og Jardar, og allra Hluta Siinelegra, Og Osiinelegra. Og a eirn



Drottẽ vorn JEsum Christum, Eingietẽ Guds Soñ, Og af Fodurnum



Fæddañ, fyrer allar Allder. Gud af Gude, Lioos af Lioose, eirn sañañ



Gud, af Gude sõnum, Gietẽ eñ ei giørdañ jamrar Veru med Fodurnum,
fyrer


fyrer hvørn ad allt er giørt, Hvør vegna vor Mañaña, og vorrar Heilsu


Saker, stie nidur af Himne. Og took Holldgan af Heilags Anda Krapte,


af Mariu Meyu, og er Madur vordeñ. Hañ er og fyrer oss Krossfestur,


under Pontio Pilato, var hañ Pijndur og Grafeñ. Og er Uppriseñ


a Pridia Dege, epter Ritningunum. Og hañ uppstie til Himna, Situr


til hægre Handar Fødursins. Og hañ mun aptur koma med Dyrd til ad



dæma, Lifendur og Dauda, a hvørs Rijke ei mun verda Ender. Og vier



trwum a Heilagañ Anda, DROTTeñ allt Lijfganda, af Fødur og



Syne framfaranda, hvør med Fødur og Syne a samt tilbeidest, og a vallt



samdijrkast, hvør ed mællte fyrer Spaameñena. Og eina Heilaga Almeñe-



lega Christne, stadfesta fyrer Postulana. Og vier jatum eina Skijrn



vera til Fyrergiefningar vorra Synda. Og epterbijdum Upprisu allra,



Daudra Maña. Og Lijfe þeirrar komande Veralldar, A - men.

Adur eñ Gudspialled er uppleſed, Sijngeſt þetta Vers.



J Dag Ett Bleſſad Barned er, Bored og fædt i Heimeñ, Være þad
Af hreinre Mey oſs Aumum hier, Er til Lauſnar komeñ.



Barned oſs ei fædt, aller heſdum vier Dauda mætt, af þvi kom allt hid Gooda, O!



vor ſæte JEſu Chriſt, Er Eirn Madur oſs fæddeſt, hliif oſs vid Helvijtis Voda.

Honum ber jafnañ, etc. Epter Predikun, Heidra ſkulum vier HErrañ Chriſt.

Strax þar epter uppbyrie Preſtureñ Præfationem, A þeñañ Hatt.

DTott.

Drotteñ sie med ydur. Diaknenn. Og med þijnum Anda. Lyptum upp Hiørtum

vorum til Himens. Diaknenn. Vier hefium þau til DROtteñs. Laatum

oß þacka DRottne Gude vorum. Diaknenn. Pad er tilheyrelegt og Riettvijst.

Sañlega er þad Tilheyrelegt og Riettvijst, Skylldugt og miog Hialpsamlegt

Ad vier alla Tijma og i ollum Stodum Lofum þig og Þackum þier, Þu Heilage HErra Almattuge Fader og Eilijfe Gud, fyrer JEsum Christum vorn DRotteñ.

DRottenn, Þu sem fyrer ORDED, sem at sig took Manndoom, i Liooma þinnar

Byrtu, upplijser vor Hugskots Hiortu m d nyu Lioose. So ad nær vier ber-

lega þeckium Gud, ad vier þa mættum i riettum Kiærleika, til sannrar Astar

og Gyrndar Oforgeingelegra Hluta, verda uppkveikter. Og þar fyrer med

Einglunum og Hofud-Einglunum, med Thronunum og Maktarvoldunum.

Somuleidis asamt med ollum Himneskum Hirdsveitum, Syngium vier

Lof



Lofsaungeñ þinar Dyrdar, O = aflæatanlega Segiande.

## SANCTUS.



Hei - lag - ur. Hei - lag - ur. Hei - lag - ur ert þu DRotteñ



Gud Zebaoth, Himnarner og so Iørdeñ, eru full af Dyrd þinne.



Hoolpna giør þu oss i Hædum. Blessadur sie sæ sem kiemur i Naf-



ne DRotteñs. Hoolpna giør þu oss i Hædum.

Epter

Epter Sanctus fylger Aminingeñ til þeirra sem gaanga til Guds Bords, etc.
Eñ a medañ Sacramentum utdeilest, þa sie sunged.















Hei-



Heilagur, segest þu i Hædeñe. Þitt Folk o Christe! lofar þig, þijn Brwd-



ur af Hiarta nu gledur sig, fyrer þijna Naad og Myskunseme, Heilagur,



Epter Blessan.

Heilagur, Heilagur, hun lofar þig.



Boreñ er Sveirn i Bethlehem, i Bethlehem, best gledst af þvi Jerusalem,



Ha - le - luja.

J

J hordum Stalle hvijlest sa, hvijlest sa, hvors Rijke alldrei endast ma, Haleluja.
J Hwse Uxa og Asna þar, Asna þar, Ei, kijsur D Rotteñ fæddur var, Haleluja.
Vijser af Austre færdu Sie, færdu Sie, Fagurt Gull, Myrru og Reykelse, Haleluja.
Fæddur af Moodur Meyu var, Meyu var, Mañs Volld eingeñ komu til þar, Haleluja.
Ormsins Spilling ei var a heim, ei var a heim, af Bloode voru barst i Heim, Haleluja.
Hañ lijkest ofs ad Holldsins Mynd, Holldsins Mynd, hreirn og Ojafn ofs ad Synd, Haleluja.
Ad ofs med Giæsku giorde hier, Giorde hier, Gude lijka og sialfum sier, Haleluja.
A Fædingar Hatijd Frelsarans, Frelsarans, fagne og synge Christnen hañs, Haleluja.
Helgasta Preñing heidrud sie, heidrud sie, med hreirnre Trw og Packlæte, Haleluja.

## Añañ Dag Joola.

Introitus, Kyrie, Haleluja, Seqventian, Credo, og Verseñ af Predikunar Stoolnum, So sem a Joola-Dageñ. A medañ Sacramentum wtdeilest, Pier sie Lof og Dyrd JEsu Christ.

Pro Offertorio.



Slinged Gude sæta Dijrd, Þar med Lof og Packargiord, nu byrtest Zion og oll Christeñ Hiord.


sær, sem fædde Mey Maria. Framkom allt sem fyrr var mællt af Gabriel.


Eya, Eya, Jomfrwenn bar Gud i Heim, Faderenn i Syne þeim oss tok i Sætt.


Nu i Dag auglijstur er, auglijstur er i Israel, Kongur hær sem Meyann


klær oss hefur fœdt. Þæsamlegt er DRottens Nafn, Emanuel, um hvad


ædur sagt er fyrer Gabriel.

JEsum

JEsum Christ i Heim oss bar, Jomfrw sem hans Mooder var, um Mans Volld ei visse par. Nu byrtest saa, sem fædde Mey Maria. Framkom allt sem fyrr var mællt, etc.

Fæddum Konge fagne Piood, fagurt synge Bornen good, sege hvor sem hefur Hliood. Nu byrtest sa, sem fædde Mey Maria. Framkom allt sem fyrr var mællt af Gabriel. Eya, Eya, Jomfrwen bar Gud i Heim, etc.

Zion lofa Lausnaran, Lijf-Giof vora Gud og Man, Synd og Kvol oss svipte han. Nu byrtest sa, sem fædde Mey Maria. Framkom allt sem fyrr, etc.

Epter Blessan, skal syngia þennan Psalm. Ton, Fader vor sem aa Himnum ert, etc.

GUlde sie Lof fyrer Gledeleg Jool, gladt skijn fogur Riettlætis Sool, Guds Son uppran aa Himna-Hæd, Hier aa Jord giordest Kvinnu-Saad, Auglijstest han med Ast og Frid, under hans Væng var Hiaalprædid.

Upplijsta Men med Ordsens Ment, allmarga hefur til vor sendt, han vill med Fodurnum hiwkra ad, hvorium sem kunna ad þeckiast þad, Hvor til hans leitar Huggunar, honum han alldrei fraavijsar.

Dæme Gydinga daarlegt er, DRotten goodur þvi forda mier, þeir villdu ei þitt Vængia-Skiool, Villu-Myrkren hofnudu Sool, Hws þeirra fyrer HErrans Makt, hardlega vard þvi Eydelagt.

So ecke kome aa mig stefnd, alls Riettlaats Bloods hin saara Hefnd, hvor þeim Forherdtu hootud er, Sem hrinda DRottens Naad fraa sier; Giefdu HErra ad Hug-Ast mijn, Hijrlega take Bodum þijn.

Un mier ad snwast æ vel vid, ollum þeim sem mier boda Frid, ad eg sem Hreidur-Unge þinn, Athuge Gagn og Heidur minn, og audsveipur med Elsku-Traust, adhyllest þijna Naadar Raust.

Og þo eg yrde Eirn fyrer þvi, Utfor ad reyna Stephani, Ef þad minn DRotten þocknast þier, þessa Heims reyne Offsookner, Jaa, þo mig deyde daarleg Piood, dijrmætt er fyrer þier mitt Blood.

Andleganñ Styrk mier auktu þa, Er eg skal Heime fara fra, ad Giedhijr mijna gliwpa Ønd, Giefe eg JEsu i þijna Hønd, Hormum mijnum i Huggun snw, Og Himnenum fyrer mier uppliwk þu..

Sofna laat mig i Sæluré Roo, Sælañ med helgum Stephano, og þo eg kañe Abels Neyd, ñ i þiñ Dijrdar Fognud leid. Framfor mijn sie, þo fylleſt Kijſs, Fædingar-Dagur til eilijfs Lijfs! Amen.

## Pridia Dag Joola, Messu Upphaf og allur añar Saungur,

### Fyrer og Epter Predikun, Eins so sem Añañ Dag Joola.

Epter Blessan þeñañ Psalm, med Lag, Osañ af Himnum hier kom eg, etc

HErra JEsu mijn Heilsu-Giof, Heidur sie þier og Eilijft Lof, Hiarta Gied þitt og Heilagt Maal, huggar stoorlega mijna Saal.

Pañ sem neitade Prisvar þier, þijdlega aptur Naadader, Og afhendter honum Embættid, sem aumlega hafde forbroted.

Ad hañ skyllde med Orde og Giord, Anvolstast þijna Sauda-Hiord, hier af merke eg þig Hyrder miñ, Heite eg wtvaleñ Saudur þiñ.

Ef[?]r þu jafnañ Øñ fyrer mier, og umbod þitt þar til Brædrum lier, So Lomb þiin ecke lijde Neyd, Lijtel Trw biargast vid þiñ Eid.

Glotun Syndugs þu gyrneſt sijſt, Grætande yillt hañ Leidriettiſt, med Petre so meige fiña Frid, Og Fyrre Nafn-Bootum taka vid.

Johañes er þu elskader, um̃ þig Eitt Sañleiks Vitne ber, uñter þu honum leynt og liost, og lagder sem Ungbarn þier a Brioost.

Hañs er Miñing nu hallden frijd, a helgre þiñe Burdar-Tijd, um̃ eilijfs Gietnadar Upphaf þijns, Upphaf liet vera Gudspialls sijns.

Læresveinn þesse styrkur stood, stud de hañ Gud-

Guddooms Vitskañ frood, ödladest Glede, Unadsemd, Og Eilijft Nafn i Himnestre Sæmd.

Myskun þijn JEsu mættug Ein, mig giö-re sodd añ Læresvein, Sem Eilijslega elsker þu, Auk mier Gudhrædslu Dygd og Trw.

Anda þiñ lææt þu orva mig, so elskad fææe eg af Hiarta þig, Eins og Petur, epter sitt Fall, Einkum þa Hana-Raustteñ gall.

Eins þo so fielle um miñ Hag, ætte eg med Petre Sorgar-Dag, Og dragest miit Hölld æ Daudans Stig, Dijrkad so fææe eg þar med þig.

Elskhugeñ sæte uñ þu mier, ad epterfylge eg glarnañ þier, J Hoogværd, Audmykt Hlijdne og Ast, hallde mier jafnañ vid þig fast.

Helgra Maña so hafe eg Sid, hvad sem mier kiemur ecke vid, Ad eg þar alldrei uñ hnijsest, Eñ athuge sialfs mijns Skyldu Brest.

Ædste Hyrder og Elskañ mijn, All þu oss Veikleg Lombeñ þijn, Med Orde o Raad i Heime hier, Og Himnesku Braude sijdar meir! Amen.

---

## Suñudageñ mille Joola og Attadags, allur Saungur fyrer og epter Predikun, eins og æ Añañ Dag Joola, fyrer utañ Credo, Vier trwum aller æ eirn Gud, Skapara Himens etc.

Epter Blessan þeñañ Psalm, Med Lag, Heimile vort og Hwseñ med, etc.

FOrelldrar JEsu fuller af Ast, Fregn nær ed heyrdu þessa, Af honum sagda, ad þvi dææst, Eñ þau Simeon blessar, Seger vid Mariu Moodur hañs, Morgum til Falls er sæætil Sañs, Eñ suma mun samt vid þressa.

Hañ er þad Teikn og Hæfed Eitt, hvörium þeir tala æ moote, Eñ Harma-Sverded Hiartad þitt, Hart trw eg særa hlioote, So margra Hugskot og Hiartans Pel, Hvaa eg þa verde auglioost vel, Po añad yfer flioote.

Phanuels Dootter Eckia Ein, Aña sw Spaadooms Kviña, Af Assers Kyne Hiarta hrein, Hafde sem Gudspioll iña, Med Eignar Mañe um̄ Areñ Sio, Afliſad riett fraa Meydoome, Saurgan ei viliad ſiña.

Fioora um̄ Attraett hafde hun, Himna Guds priiſar Millde, um̄ Dag og Naatt þeſs miñaſt mun, Muſtered raekia villde, Med Blndinde og Baenahalld, Biiſalar ſig ai Drottens Valld, ſem Eckiur vel akta ſkylldе.

Sw kom þar fram̄ i ſomu Tijd, Seger med ſkijru Maale, Lijdnum þeim ſem ad Lauſnar beid, Leinge til Jeruſalem, Loſar þad Barn ſem liooſt hun kañ, Lyſir ad hañ ſie Gud og Mañ, Eydande Illſku Taale.

Pa giort var allt ſem Bodord baud, baede Hioon aptur ſnwa, J Galilaeam, þo naelgeſt Naud, J Nazaret ad bwa, Eñ Barned JEſus Alldur jook, allañ Viisdoom og Proſka took, Med Guds Naad, þvi glogt maa trwa.

Laattu mig DRottеñ daadſt ad þeim, dijrmaeta Vitnisburde, Pu varſt boreñ i þeñañ Heim, So Praell eg frelſtur yrde, Til Uppreyſtar eñ ei til Falls, Ertu mier og Gooda alls, Faeddur ſo Huggun heyrde.

# A Nyaars Dag.

Meſſu Upphaf, Frelſareñ er oſs faeddur nu, Kyrie, Gloria, Seqventian, Credo, og allur añar Saungur ſem aa Joola-Dageñ.

## Packarglord fyrer umlided Ar, aa ad ſyngiaſt aa Nyaars Dag, og byrjaſt af Predikunar-Stoolnum, ſtrax epter Endada Predikun.



